# Dagsbrún.

Mánaðarrit
til stuðnings frjálsri trúarskoðun.

II. | GIMLI, MAN., DESEMBER 1894. | 12.

## TRÚIN Á GUÐ.

EFTIR M. J. SAVAGE.

–:o:–

### VII. EIGUM VÉR AÐ BIÐJA GUÐ?

Nú á tímum eru menn, ef til vill ekki í jafnmiklum efa um nokkurn hlut, eins og um bænina til guðs. Margir eru þeir, sem þegar hafa slegið því föstu með sjálfum sér, að bænin til guðs sé ósamrýmanleg hinni vísindalegu hugmynd um alheiminn. Stígi þeir í stólinn þessir menn, þá fella þeir bænina úr, eða þá, að þeir setja í stað hennar einhverja þulu, sem þeir beina ekki að neinni persónu, nema ef vera skyldi áheyrendunum—eða þeir ávarpa alheiminn yfir höfuð, án þess þeir hugsi sér að nokkr guðleg vera heyri til þeirra, eða gjöri sér von um, að það hafi nokkr áhrif eða afleiðingar. Ef að þessir menn eru meðal áheyrendanna, þá undrast þeir yfir því, að klerkrinn skuli vera að halda uppi þessu meiningarlausa rugli, sem aðeins sé eftirstöðvar af gamalli hjátrú. Aftr eru margir svo viðkvæmir, að þeir segja: „Vér viljum neyta skynseminnar í trúmálum, vér könnumst við það,að vitið eigi að ráða, en þó þreyja hjörtu vor eftir hjálp og hluttekningu Vér viljum biðja og getum naumast látið það vera“. Þannig kastast menn sem boltar á milli skynseminnar og tilfinningarinnar eins og skip í hafróti og finna hvergi ró. Þó er þriðji flokkrinn í enn meiri vafa. Þeir kunna eigi við gamla bænarmátann, en það er mjög óljóst

fyrir þeim, hvort bænin hafi nokkra þýðingu eða enga, og svo bíða þeir þess, að gátan verði ráðin.

Ég ætla nú í stuttu máli að gjöra mitt til að leysa þessa spurningu, svo framarlega, sem ég get.

Eigum vér þá að biðja, eða eigum vér ekki að gjöra það? Mér virðist þetta vera langt frá því að vera einn af þeim hlutum,sem hvorki gjörir til né frá um. Ef að bænin getr verkað eitthvað gott annaðhvort fyrir sjálfa oss eða aðra, þá eigum vér að biðja guð. Ef að bænin er gagnslaus, þá er það til ills eins að biðja, því það vekr eftirvæntingar, sem ekki rætast, leiðir huga mannsins á stigu, sem engan enda hafa, það er að eiða kröftum þeim til einskis, sem nota hefði mátt til einhvers annars. Eigum vér þá að biðja guð, eða eigum vér ekki að gjöra það?

Vér skulum grafa svo nærri rótum efnis þessa, sem mögulegt er. Hvað var það nú sem villimaðrinn þóttist vera að gjöra, þegar hann fyrst fór að biðja? Þó að hann beygði höfuð sitt fyrir illa skorinni líkneskja, fyrir staur eða steini þá megum vér ekki láta oss henda þá glópsku, að ætla að hann væri að biðja til einhvers, sem ekki hefði neina vitund um sjálfan sig. Hann bað ekki til steinsins eða staursins. Hinir viltu forfeðr vorir voru heimspekingar og vísindamenn upp á sína vísu alt að einu og vér. Hún var óhefluð þessi speki þeirra, og vísindi þeirra náðu ofr skamt. En það, sem þekking þeirra náði, þá var hún skynseminni samkvæm. Fyrst dýrkuðu þeir forfeðr sína, hinar fyrstu bænir, sem þeir fluttu, fluttu þeir sálum þessara forfeðra sinna Þeir ætluðu, að hinn látni faðir eðr höfðingi ættflokksins væri enn þá lifandi. Hann var líkr þeim sjálfum; hann þekti þarfir þeirra; hann tók þátt í kjörum þeirra; hann var þeim nálægr og heyrði óskir þeirra. En sem andi hafði hann um leið yfirnáttúrlega og óúttæmanlega krafta, og að beiðni þeirra gat hann unnið undarleg og töfrafull verk, bæði á jörðunni, í loftinu og á himnum.

En þessar óbreyttu bænir þeirra höfðu og annað inni að halda,en eintóma bæn. Þar getum vér fundið fræið að hinum göfugustu og indælustu ávöxtum, sem guðsdýrkun hinna veglegustu manna hefir framleitt. Þeir báðu ekki einungis, heldr buðu þeir fram. Þeir báðu ekki einungis um afkvæmi, um fénað, um heppni á veiðum, eða sigr í orustum, en þeir fundu einnig til lotningar og tilbeiðslu, þeir höfðu

tilfinningu af samfélagi þessara göfugu sálna, sem þeir voru að flytja bænir sínar.

En því réði hugsunarháttr biðjandans og hugmynd sú, er hann hafði gjört sér um guð, hvað af þessu að var nú aðalatriðið í bæn hans. Ég vil biðja yðr að athuga þetta vil, því það á sér stað, ekki einungis þegar villimenn eru að biðjast fyrir, heldr á öllum öldum og eins nú í dag eins og áðr fyrri. Í Suðr-Amiríku er þjóðflokkr einn lírill og eru guðir þeirra manna svo góðir og velviljaðir, að þeir þurfa aldrei að biðja þá um neitt, heldr aðeins að færa þeim fórnir og bera fram þakklæti sitt. Og ef vér hlustum á bænir manna þeirra, er vér köllum mentaða og þykjast vera mentaðir, þá munum vér verða þess varir, að sumir þeirra eru einlægt að biðja um eitthvað, aðrir eru að þakka fyrir veittar velgjörðir, einir láta einkum í ljósi lotningu sína og auðmýkt, enn aðrir frambera vonir sínar og óskir. Þessi mismunr kemr allr af mismunandi hugsunarhætti þeirra, er biðjast fyrir og svo af mismunandi hugmynd þeirra um guð þann, er þeir flytja bænir sínar. Að þessu leiti er bænin lík öllum öðrum störfum mannins. Þau laga sig jafnan með tímanum eftir því sem best lætr. Menn eru ekkí vanir að haga störfum sínum þannig, að þau geti ekki heppnast og eins vilja menn eigi heldr haga bænum sínum á þann hátt, að þær verði ekki uppfyltar. Ef að maðr einn biðr um regn, eða heilsu, eða sigr í orustu, eða góða uppskeru, þá er það af því, að hann trúir því, að til sé einhver, sem heyri bæn hans og láti að óskum hans og veiti honum það, sem hann biðr um.

Þessi tegund bænagjörðar var mjög eðlileg hugsunarhætti hinna fyrri manna. Guðir þeirra voru sumir á himni, sumir í loftinu, sumir á jörðu niðri. Þeir stóðu fyrir utan náttúrukraftana og höfðu þó vald yfir þeim og gátu komið til leiðar því, sem þeir vildu. Þeir voru nokkurskonar ábyrgðarlausir harðstjórar. Ef að menn gátu með einhverju móti fengið þá á sitt mál, þá voru menn vissir um, að fá óskir sínar uppfyltar. Í öllu verulegu hefir hugsunarháttr þessi verið ríkjandi alt fram á þenna dag. Hinn hebreski Jahve var vera, sem stóð fyrir utan þenna náttúruheim, hann hafði skapað hann og ríkti yfir honum, sem konungr ræðr ríkjum sínum. Heimrinn gekk sinn vana gang á eðlilegan hátt, nema svo bæri að, að guð þættist hafa ástæðu til þess, að skerast í leikinn. Menn gátu raunar með ýmsu móti fengið guð til þess að gjöra eitt eðr annað, sem alveg var gagnstætt öllum lögum

náttúrinnar, og hið sama hugðu menn, að guðir heiðingjanna væru máttugir að framkvæma.

Ef að Grikkir og Rómverjar gátu á einn eðr annan hátt gjört vinda guðinn Œolus sér hliðhollan með gjöfum eða fyrir milligöngu einhvers annars guðs, þá lét hann vinda sína blása af áttum þeim, sem menn vildu byr fá.

Ef að þeir gátu náð hylli Junó, eða Venusar, þá hjálpuðu gyðjur þessar þeim í orustum, og hið sama var um alla hina guðina, og þannig hefir það verið meðal kristninna manna. Menn hafa hugsað sér guð fyrir utan náttúruna og lögmál hennar. Hann hefir stundum verið látinn berjast á móti henni. Hugsun manna hefir alment verið sú, að náttúran gangi sína leið, fylgi sínum lögum, en þegar menn fara að biðja þá hefir þessi bæn einkum þeirra manna, sem eru nógu trúgjarnir, eðr trúarsterkir, svo mikið vald yfir guði, að þeir geta fengið hann til þess, að gjöra ótal margt, sem aldrei mundi skeð hafa, og ómögulegt var að skeð hefði, ef að þeir hefðu ekki farið að biðja. Ef að menn þessir biðja guð, þá fer hann að breyta til um veðrið, um uppskeruna, um forlög þjóðanna og mannanna, hann fer þá að gjöra eitt eðr annað, sem hann alls eigi mundi hafa gjört, ef að hann hefði ekki verið beðinn. Ég hefi oft heyrt menn segja, að bænin sé afl það, er hreifi arm þann, er stjórnar alheiminum.

En hvar í liggr hin orustan, sem verið er að heyja milli bænarinnar og vísinda hinna nýrri tíma? Menn hafa haft eitt og annað á móti þessum bænum, einkum þeir, sem hafa verið haldnir hugsandi menn. En vöxtr hinna nýrri vísinda og heimspekin hefir kastar nýju ljósi á spurningu þessa. Vísindunum kemr ekki saman við hina alþýðlegu hugmynd um bænina. Þar útilykr hvort fyrir sig annað svo, að annaðhvort hlýtr að deyja, hlýtr að vera rangt. En hver, sem álítr hin nýrri vísindi vera á góðum rökum bygð, verðr þó að athuga vel spurningu þessa. Ég sagði nýlega, að á öllum öldum hefði bænin lagað sig eftir hinni ríkjandi hugmynd um guð og sambandi hans við alheiminn. Það, sem vér því nú þurfum að athuga, er þetta, að þroskun vísindanna hefir gjörsamlega breytt þessum hugmyndum. Vísindin eru ekki nein hvarflandi hugmynd sérvitra manna, þau eru ekki hlutr, sem hefir verið prakkað upp á heiminn, heldr eru þau tilraun til þess, að komast að því, hvað sé eðli alheimsins. En nú sjáum vér, að vísindin hafa fundið og sannað, án þess að hægt sé í móti að mæla

það, sem menn hafa kallað lögmál tilverunnar eða náttúrunnar. Eðr með öðrum orðum, í alheiminum ríkir óbreytanleg og algild regla eðr lögmál. Þetta lögmál mega menn þó ekki skilja svo, að það stjórni alheiminum, heldr er það nafn á aðferð þeirri hinni óbreytanlegu, er kraftr sá verkar með, er stjórnar alheiminum. Eftir því, sem vísindin líta á það, þá er guð enginn kraftr fyrir utan náttúruna, sem menn á einn eðr annan hátt geti lokkað til þess, að taka í strenginn og breyta henni eða framkvæma það sem er öfugt við lögmál hennar. En hann er einmitt þetta lögmál þessi regla sjálfr. Eða, svo að vér snúum því við, þetta lögmál og þessi regla náttúrunnar, er aðeins annað nafn á lífi hans og verkunum. Þetta sjóðandi ólgandi líf, sem titrar um allan heiminn, er sjálfr hinn lifandi guð verkandi um alt og í öllum. Og sjáið þér nú ekki hvernig í því liggr? Þegar ég bið guð, að breyta lögum náttúrunnar, þá er ég að biðja hann að vera eitthvað annað en hann er eftir eilífu eðli veru sinnar. Þetta getr ekki verið sannarleg bæn, það er óvirðing á guði.

Hin almenna hugmynd um bænina, sem eru leifar frá fyrri tímum er því óskynsamleg og getr ekki samrýmst þekkingu vorra tíma á heiminum. En nú skulum vér athuga atriði þessi nokkuð nákvæmar.

Það er þá fyrst, að þegar menn biðja þess, að eitthvað sé gjört fyrir sig bónarinnar vegna, án þess það gangi fyrir sig eftir hinum vanalegu lögum náttúrunnar, þá er hann, hvort sem hann veit af því sjálfr eðr ekki, að biðja um, að kraftaverk sé unnið í hans þarfir. Að biðja um heilsu, eða heppilega sjóferð, eða um rigningu í þeirri von, að einhver kraftr, sem standi utan við náttúruna, muni gjöra það fyrir beiðni þessa, sem náttúrulögin neita að gjöra, það vil ég segja, að sé að vonast eftir kraftaverki. Vér skulum skýra það með dæmi einu um veðrið. Veðrlagið yfir borginni Boston í dag á að rekja orsakir sínar lengst aftr um óendanlegan tíma. Að bæta við eðr taka burtu úr loftinu einn einasta dropa af raka—öðruvísi en með mannlegum kröftum eðr náttúrlegum meðölum—væri engu minna kraftaverk, en að svifta upp fjallinu „Mount Washington" með rótum sínum og fleygja því út á „Portland höfn".

En hitt er öðru máli að gegna, að maðrinn getr breytt veðrinu á náttúrlegann hátt jafnvel í heilu bygðarlagi. En getr guð það þá ekki líka? Maðrinn getr breytt náttúru ástandinu á einum stað með því, að höggva niðr skóga, eðr þurka upp mýrar, eða komið róti á loftið með

langvinnri skothríð. En þá vinnr hann alveg samkvæmt lögmáli náttúrunnar. Hann þarf meira að gjöra en að biðja um þetta. Því er það, að ef að vér hugsum oss, að guð standi fyrir utan lögmál hins náttúrlega heims, þá getum vér hugsað oss, að hann breyti þannig. En nú er því ekki svo varið. Vér hugsum oss guð sem íbúandi í heiminum; og þessi lög náttúrinnar eru hans vegir, eru aðferð sú, sem hann hefir til að koma í ljós sem verkandi afl í náttúrunni. Vér getum því ekki líkt þessu saman. En er nú nokkr ástæða fyrir oss að harma það, að vér skulum ekki geta breytt veðrinu með bónum vorum? Vér höfum veðrfræðistofnun, sem vandlega aðgætir ásigkomulag loftsins og getr því með lítt skiljanlegri nákvæmni sagt fyrir mikilvægar veðr breytingar, storma áðr, en þeir falla yfir, hraða þeirra á klukkutímanum og stefnu. Undir þekkingu vorri á þessu er komið líf mörg þúsund manna á viku hverri og fjár-upphæð, sem nemr mörgum milljónum dollars. Setjum nú svo, að einhver óþektr maðr gæti með bæn sinni umhverft þessu öllu saman, væri það þá virkilega velgjörð af guði, að veita honum þessa bæn? Ég skal nú segja yðr það, að eitt af því, sem ég er sérstaklega þakklátr við guð fyrir er það, að hann er iðulega miklu betri við oss en dutlungar vorir oftlega eiga skilið, þegar hann neitar oss um bænir vorar. Vér getum séð það ljóst, að, ef að vér förum að biðja guð að gjöra eitthvað fyrir oss, þá biðjum vér hann að breyta lögum náttúrunnar.

En það er líka önnur vitleysa, sem liggr oss opin fyrir sjónum. En það er það, að mikill hluti bæna þessara er eintóm eigingirni. Menn ímynda sér að guð sé dintóttr og hlutdrægr, svo að vér með bænum vorum getum fengið hann til þess, að draga vorn taum öðrum til tjóns og skaða. Setjum nú svo að ég sé á siglingu frá Ameríku til Evrópu og biðji um hagstæða vinda. Get ég nú með bænum mínum fengið guð til þess, að gleyma einhverjum öðrum, sem liggr alveg eins mikið á að komast áfram og mér, en siglir í gagnstæða stefnu? Ég bið um vind á vestan, en hann biðr um vind á austan. Eða setjum svo að jörðin, sem ég bý á, sé sendin og ég biðji um regn, en nú er jörð nágranna míns blaut og *clay* kend, svo að regnið, sem ég bið um eyðileggr hálfan jarðargróða hans. Hverja bænina mun guð nú veita af öllum hinum óteljandi bænum, sem eru hver annari mótsettar. Eða ætli honum fari líkt og þingmanninum, sem langaði til að vera kosinn aftr á þing, og lét því að óskum meiri hlutans. Um þetta atriði hafa hinir hálærðu

guðfræðingar átt í hörðustu deilum. En skyldi það nú, þegar öllu er á botninn hvolft, ekki vera betra fyrir oss, að geta reitt oss á nátturlegan gang hlutanna og lært það að laga oss eftir því hvernig til hagar í hvert skifti.

Þá er það og athugandi, að oft er bænum vorum þannig varið, að vér biðjum guð að launa vanþekkingu og leti og klaufaskap. Setjum svo, að ég eti og drekki eitt eðr annað, sem mér er skaðlegt, og þegar ég er orðinn veikr af því, þá bið ég guð, að gjöra mig heilbrigðan. En hvað er ég þá að gjöra? Þessi lög og skilyrði heilsunnar guðs lög. Hann lætr þessi lög segja mér hvernig ég eigi að láta mér líða vel og vera heilbrigðr. En að hugsa að ég geti verið frískr og mér geti liðið vel, þegar ég brýt lögmál heilbrigðinnar, er sama og að hugsa sér, að brotið organ geti framleitt góðan söng. Hvað munduð þér hugsa um organleikara þann, sem tæki sér hamar í hönd, lemdi svo á nóturnar og mölvaði þær, og segði svo guði, að gera þær góðar. Vér mundum ætla, að sá maðr væri best kominn á vitlausraspítalanum. En svona er nú vitfirringin hjá fjölda manna, sem biðja til guðs og ætla, að bænir sínar séu hin mesta dygð og guðhræðsla. Eða setjum svo, að ég vanræki að athuga eðli jarðarinnar á ökrum mínum, og skeyti því ekki um að sá í þá hentugum tegundum af korni, eða bera í þá hentugann áburð, en fari svo að eins og bóndinn forðum, að ég fari út á hvert horn akrsins og biðji þar til guðs, að hann, þvert á móti öllum lögum náttúrunnar, gefi mér uppskeru þá, sem akrinn ekki getr framleitt, svo að ég þurfi ekki að ónáða mig að læra hvernig það eigi að ganga náttúrlega til. Eða setjum nú svo að ég sigli út á haf í báthrófi sem ekki er sjófær, eða svo ónítum og lekum, að hann hlýtr að sökkva, en þó fer ég að biðja guð, að varðveita mig á þessari siglingu, að bjarga mér þrátt fyrir flónsku mína. Sjáið þér nú ekki, að í öllum þessum tilfellum er ég að biðja guð um það, sem honum er ómögulegt að gjöra um, það, sem hann getr ekki, að biðja hann, að vera í mótsögn við sjálfan sig, svo að ég þurfi ekki að hafa fyrir því, að læra hans eigin lögmál.

Þannig löguð bæn er því auðsjáanlega hneyksli eitt. Vér verðum að muna eftir því, að lögmál náttúrinnar og alheimsins eru hinn lifandi guð. Vér verðum stöðugt að hafa það hugfast, að, ef að guð er fullkominn, —og sé hann það ekki, þá getr hann ekki verið guð— þá verðr hann eitthvað minna en fullkominn, ef hann fer að breytast

við bænir vorar. Það er ósvífni að ætla sér, að fara að ráðleggja guði. Það væri rétt eins og fluga ein á hveflingunni í Pétrskirkjunni í Róm færi að koma með uppástungu til endrbóta á meistaraverkum Michael Angelo's í sömu kirkju. Þegar Ingersoll stakk upp á þeirri endrbót í heiminum, að heilbrigðin yrði smittandi í stað sýkinnar, þá gætti hann eigi þess, að hún er það. Og svo er um margt af hinum góðu ráðleggingum, sem hinir rétttrúuðu gefa guði, að þeir gleyma jafn mikilvægum atriðum og þetta var. Ég skal taka dæmi: Hvað er ósvífnara að ég ekki hafi harðari orð, en þessar vanalegu bænir í kirkjunni, þegar hálfum klukkutíma er varið til þess, að segja guði frá því, og telja upp ögn fyrir ögn alt ástand safnaðarins, allar aðgerðir stjórnarinnar og alt ástand heimsins yfir höfuð, sem menn þó hugsa sér að guð þekki alt út í hörgul. Það er líkt og þegar prestrinn sagði í bæninni: „Ó drottinn! þú þekkir ekki helming af fólskuverkunum, sem unnin eru í þessari borg“.

Tökum nú aðra tegund hinnar opinberu bænargjörðar. Þar er gengið út frá því, að guð láti sér ekki jafn ant um sinn eigin heim og sálir barna sinna eins og kirkjufélögin. Menn hugsa að þeir geti velt á stað endrfæðingaröldu, geti frelsað sálir, boðað heiðingjum guðspjöllin og frelsað þá frá helvíti með því, að knýja eðr neyða himnaföðurinn til þess, að taka nú til að vinna með sér. Menn hugsa einlægt, að hann geti gjört óendanlega miklu meira, en hann gjörir, en ætla, að hann gjöri það ekki, nema gengið sé eftir honum, nema hann só knúðr áfram með bænum. Þetta eiga hinar svo kölluðu „vikubænir“ að verka. Ef að kirkjufélögin leggjast á eitt verða samtaka og herða sig og knýja fast á, þá koma þær guði á stað. Hann sitr á himni og sér sálirnar hrapa, skjálfandi, veinandi, niðr í hið sjóðandi dýki; hann hefði getað frelsað þær með einu andartaki, en hann vill ekki gjöra það, nema kirkjufélögin knýi hann til þess með látlausum bænum sínum. Ef að guði væri þannig varið, þá hefði ég skömm á honum. En sé hann ekki þannig, þá hlýtr hann að hafa skömm á kirkjufélögum þeim, sem þannig láta. Eða eru mennirnir betri en guð? Setjum svo, að ég færi til elskulegrar móðr, sem full væri af ástríki og viðkvæmni til barna sinna, og færi að biðja hana, að fara vel með börnin sín, að vera góð við þau, að klæða þau og líta eftir þörfum þeirra. Þetta þýddi eitt af tvennu: annaðhvort væri það ósvífni af mér, eða ég væri sá

bjáni, að ég vissi ekki, hvað ég væri að gjöra. Ég man eftir bæn einni sem ég heyrði þegar ég var drengr. Einkum var það ein setning, sem aldrei gat gleymst mér. Einn góðr bróðir í söfnuðinum var vanr að biðja: „Ó drottinn! það er tími fyrir þig að taka til starfa". Eins og hinn alvitri og almáttugi guð þyrfti nauðsynlega að fá olnbogaskot til að vakna,—hann hefði verið sofandi og hefði gleymt hvað starfa skyldi.

Þá er enn athugavert við þessar bænir, að einginn getr vitað neitt um það, hvort bænir manna eru heyrðar eða ekki, ég veit það, að heilar bækur hafa verið skrifaðar um bænir, sem hafa verið uppfyltar, ég veit það vel, að þetta er mjög alment umtalsefni i kirkjublöðum, en sannanirnar eru vanalega af sömu tegund og þegar verið er að sanna að draumar manna rætist, eða að fyrirburðir reynist sannir. Ekki ein einasta uppfylling bæna þessara verðr skýrð á náttúrlegan hátt. Menn muna það vel, ef svo ber við, að draumarnir rætast, en ekki hitt þegar þeim skjátlar.

Vér skulum taka t. d. Tæringarlæknunar-stofnun Dr. Cullis. Læknir sá segir það, og trúir því vafalaust, að hann lækni sýkina með bænum. Biflían setr óefað fram þær sömu skoðanir. En þá ætti líka hver maðr, sem trúir á óskeikanleika ritningarinnar, að forðast það, að leita nokkru sinni læknis. Nýjatestamentið meira að segja bannar mönnum, að leita læknis. Það býðr, hverjum þeim, sem veikr sé, að senda eftir öldungum kirkjunnar, en ekki eftir læknir. Það bannar mönnum, að neyta meðala og að hafa reglu á matarhæfi, en segir mönnum, að smyrja sig með olíu og biðja. Mér þætti gaman að heyra einhvern rétttrúaðan mann, sem sjálfum sér væri samkvæmr, verja læknisstörfin. Það væri þvert ofan í það, sem þeir kalla guðs orð. Á þessum tímum er skringilegr trúflokkr á Englandi. Þeir kalla sig: „the Peculiar People": hinn sérstaka lýð, og reyna að fylgja setningum ritningarinnar að því, er sjúkdóma snertir, en þó að breska þjóðin kalli sig kristna og þó að hún haldi við ríkiskirkjunni og ritningunni óskeikanlegri með lögum, þá ofsækir hún þó og sendir í fangelsi þessa hina sömu menn fyrir það, að þeir hlýða ritningunni. Þannig er samkvæmnin hjá þeim, sem eru að reyna að samrýma það, sem er svo andstætt hvort öðru, að það ómögulega getr samrýmst.

En svo að ég snúi mér aftr að Dr. Cullis, þá segist hann geta læknað sjúkdóma með bænum, það er þá athugavert, að hann og aðrir hans líkar aðeins fást við langvinna sjúkdóma, þar sem ímyndunarafl sjúklingsins ræðr miklu um veikina og búast má við að líkaminn sjálfr geti hrundið sýkinni frá sér, ef ástæðr eru hentugar til þess. Enn þá hefir enginn reynt að koma saman brotnum fót með bænagjörðum. Og það er víst að margir deyja af þeim, sem lækna á með bænum. En það er einlægt hægt að segja, að bænin hafi ekki verið nógu heit, trúin ekki nógu sterk; það hafi ekki verið beðið í réttum anda, eða þá að það hafi ekki verið guðs vilji, að hinn sjúki læknaðist, þá er það þakkað bænagjörðinni, án þess að fara frekara út í það, hvort þar kunni að hafa verkast af náttúrlegum ástæðum. Þetta er álíka skynsamlegt, eins og þegar verið var að prófa sök galdrakvennanna með því, að fleygja þeim í vatn. Ef þær flutu, þá voru þær sekar og voru deyddar, en ef að þær sukku, þá voru þær saklausar, en þá druknuðu þær oftast, svo menn losuðust við þær þannig.

Ég skal nú ekki hafa á móti því, að þegar sjúkr maðr biðr um heilsu sína og veit að aðrir óska honum bata og biðja fyrir honum, þá kann þetta að vekja lífsafl hans og senda lífsstraum um allan líkama hans. En þetta er alt ofr náttúrlegt og á ekki rót sína að rekja neitt út fyrir náttúruna. En er það þá rétt, að halda á lofti þessari blekkingu, sem stöku sinnum getr að góðu orðið? Nei! langt frá! því margoft verðr þessi von um töfrahjálp til þess, að snúa athygli manna burtu frá hinum sönnu ástæðum sjúkdóms eðr heilbrigði og deyðir þannig hundrað fyrir hvern einn, sem læknast.

Á Englandi hefir George Muller orðið frægr fyrir sjúkrahús sitt, sem hann segist halda uppi eingöngu með bænum. En það er auðvelt að gjöra sér grein fyrir hvernig í því liggr, það þarf ekki meira til, en að hinn mikli fjöldi af veglyndum og góðum mönnum viti af því, að svona hús sé til. Ef að það ætti að sanna nokkuð, þá ætti enginn maðr að vita af þessu húsi, eða þessari stofnan nema sá einn, sem biðr.

Þeir atburðir, sem menn segja að bænin hafi verkað, er æfinlega hægt að útskýra á náttúrlegan hátt. Mér að minsta kosti er ó-

mögulegt að trúa öðru. Maðr einhver biðr grátandi í angist hjarta síns, guð heyrir það og veitir honum meinabót. Annar maðr er jafn hörmulega staddr og biðr guð um hjálp, en þá eru himnarnir lokaðir fyrir bænum hans. Á ég að ætla, að þetta séu dutlungar, sé komið undir því hvernig liggi á guði í það og það skiftið? Eða er það ekki miklu skynsamlegra, að trúa því, að guð verki *ekki* í heiminum á þenna hátt, þá er þungri byrði létt af trú minni og sálu. Menn svelta hundruðum, þúsundum saman og veina og biðja um fæðu, nábleikar og horaðar mæður líta með angistarsvip á börnin sín grönn og fölleit og horuð, þegar þau eru að reyna að sjúga brjóstin mjólkurlaus, og alt stafar þetta af fæðuskorti. En nú gjöra menn árás á himininn með bænagjörðum, og guð heyrir og svarar með kraftaverki. En hvílíku kraftaverki? Ekki með því að senda þeim fæðu. Heldr með því að láta vofur Maríu meyjar og helgra manna reika um í gömlum kirkjum og sýna sig geðveikum konum og hjátrúarfullum prestum. Eigum vér að játa þannig gerðan guð? Hitt er annað, að guð heyrir bænir þeirra. sem biðja um hjálp í hallæri jafnóðum og menn læra lögmál jarðyrkjunnar, eða betri samgöngur, svo að menn fljótara geti bætt úr skorti á vissum stöðum.

En er þá nokkuð eftir, þegar búið er að ryðja þessari hugmynd bænarinnar? Ef einhver færi að spyrja mig hvort ég tryði á bænina, og hversvegna ég væri að fylgja þessu formi, sem ég tryði ekki á, þá svaraði ég hiklaust: Sannarlega trúi ég á bænina af öllu mínu hjarta og ég mundi ekki hafa nein tvímæli á því, né orðaflækjur, því mér er það alvara.

Bænin er ekki eintóm beiðni. Jafnvel hinar ófullkomnu bænir hinna viltu þjóða sáum vér, að höfðu inni að halda lotningu og samneyti og fórn. Þetta játa allir. Menn deila ekki um það, og því minnist ég aðeins á það. Og vér getum fest það í minni að þær bænir eru göfugastar, þegar menn treysta guði svo gjörsamlega, að menn biðja ekki um neitt. Deilan er um þá tegund bæna, þegar menn biðja guð að veita sér eitthvað og það er einmitt sú tegund bænarinnar, sem ég á við og ætla um að tala.

Það virðist svo, sem það sé mjög alment, að mönnum sé eiginlegt að biðja. Menn hafa allsstaðar beðið á öllum tímum. Fyrir því liggr það fyrst fyrir, að rannsaka, hvort að þetta sé villa ein. Komr

P B B



það af vanþekkingu; hvort hætta menn að biðja eftir því, sem þekkingin vex. Sé svo, þá verðum vér að viðrkenna það. Vér getum ekki verið að hafa sjálfa oss að fíflum. Það er miklu betra fyrir oss, að þekkja hlutina eins og þeir eru.

En sé þessi ósjálfráða náttúruhvöt á engu bygð, þá væri hún svo undarleg, að það væri miklu meiri furða, heldr en að hún væri sönn og réttmæt. Hvað er nú náttúruhvöt? Náttúruhvöt er hvorki meira né minna, en reynsla liðinna tím,a sem orðin er eðlileg og arfgeng. Eðli hlutarins hefir skapað hana.

(Framh.)

---






G. M. Thompson hefir á hendi alla afgreiðslu á Dagsbrún og annast fjármál hennar. Kaupendr snúi sér því til hans, bæði með pantanir og borganir





Hve nær sem kaupendr að „Dagsbrún“ skifta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson

“DAGSBRÚN“ kemr út að minsta kosti einu sinni í mánuði.

Árgangrinn kostar í Vestrheimi ........................ $1,00
Sendr til Íslands en borgaðr hér ........................ $0,75
Sendr til Íslands en borgaðr þar ........................ Kr. 2,00

—— Verð árgangsins greiðist hvervetna fyrir fram. ——

Skrifstofa blaðsins er hjá
Magn. J. Skaptason, 572 Alexander Ave., Winnipeg, Man. Canada.

Ritstjóri: Magn. J. Skaptason.

Prentsmiðja G. M. Thompson.